# Octroy,

edur

# Kaup-Høndlunar Skil-mali,

eptir hverium

## Kaup-Farir til Íslands

leyfast

## Þeim almenniliga Kaupa Selskap, um Tuttugu ára frest.

Telst sá tiimi frá upp-byrian árſins 1764, til þeſs 1783 árs endalyktar.

Þeſſi Konungliga Tilſkipan er utløgd ur Donſku máli á Islendſkt, og med Konunglegu Allranádugaſta leyfi á prent utgefin

af

Eiriki Gudmundsſyni Hoff.

---

Kaupmannahøfn, 1764.
Prentad hiá Bokþryckiara Joh. Christ. og Georg. Christ. Berling.



Vier Fridrik hinn Fimti med Guds Mißkun, Konungur yfir Danmørku og Noregi, sem og þeirra Vinda og Gauta; Hertogi i Slesvyk, Holsten, Stormarn og Dytmersken; Greifi i Oldenborg og Delmenhorst ꝛc. ꝛc. Giorum vitanligt: Ad Vier, eptir sem Præses og Directeurer fyrir þvi almenniliga Hondlunar Compagnie, hafa allra-undirdanugast umsokt þann 4da Aprilis sidstlidna, med Vorri Allranaadugustu Resolution, þann 13da Junii 1763, hosum yfir latid Hondlunar-Compagniet og þess Intereßenter, i 20 aar, ad reikna fraa byriun aarsins 1764 til utgongu aarsins 1783, þaa Kauphondlun, sem i nockur aar hepur verid færd fyrir Vorn Reikning aa Islandi, og Finn-morkinni, til hverrar Octroyerne um þaa Islendsku Hondlun, utgefnar þann 13da Julii 1742, einnig um Finn-merkurinnar, þann 1ta December 1745 leggiast til Grundvallar, ad so miklu leiti sem þeßi Vor Allranaadugasta Octroy utgefin fyrir Island,

 og

og onnur fyrir Finn-morkina, samanbornar vid þad undirlag, sem Præses og Directeurer fyrir Hondlunar-Compagniet hafa allra-undirdanugast giort, samt þoa utskiringu, sem þeir þann 26 Aprilis þessa aars hafa innsent til Vors Rentu-Cammer, hafa undirgeingist, og af Oss med Resolution þann 13 Junii þessa aars, allranaadugast er samþyckt, ei þar um giorir nockra umbreiting; eins sem Vier og eirnin hier med yfirlaatum til Hondlunar Compagniets, og þess Interessenter hondlunina aa Islandi i 20 aar, fraa byriun aarsins 1764 til utgongu aarsins 1783, med slykum skilmaalum, ad Hondlunar-Compagniet fyrir baadar Hondlunirnar, so vel aa Islandi sem Finnmorkinni, um nefnda 20 aara tyd betale i aarlega afgift til Vorrar Casse 7000 Rixdale, sem skulu qvittast og innifelast i þeim Sio þusund Rixdolum, sem Vier med Vorri allranaaduguſtu Resolution, þann 13 Junii sidst-lidna hofum eptirlaatid, ad Hondlunar-Compagniet fyrir Siglingu til Grænlands, og Kiennenda upphelldi i Strat David, aa tilteknum 20 aarum, fraa byriun aarsins 1764 til utgongu aarsins 1783 af Vorri Casse skule aarlega meiga lukast, eirnin med eptirfylgiandi Skilmaalum.

## Hinn Fyrsti Postur.

Compagnied skal, aasamt siinum Interessentum, og ollum Erfingium þeirra, vera skylldugt til, at færa og framhallda þeirri Islendsku Kaup-hondlan um aadur tied Tuttugu aar, til

til þess egin aabata og Skada, hedan fraa Vo-
rum Konungliga Adseturs-Stad Kaupmanna-
hofn, eptir þessum Kaup-hondlunar Skil-
maala; sem og vera andsvarlegt, ad honum
verdi allra-undirdanugast eptir lifad.

## Annarr Postur.

Eingi Skip mega i Fridar tiidum onnur lei-
giast til Islands Kaup-ferrda, enn þau, er
þegnar Vorir eiga, og sialfir styra, sem eru
Bw-sitiandi i Danmorku og Norvegi; og i
Flensborg og Sudur-borg, Apenrade, og
odrum Sioo-stodum i Sles-viikur Hertogadæ-
mi. Eigi helldur mega vorur þær, er burt-
sendast Islandi til þarfinda, fæerast fraa odrum
Stodum, enn hedan fraa Kaupmanna-hovn.
Enn beri svo til, at Vier rotum i Striid med
odrum Potentatum, svo af þvi stædi nockur
hindran; þaa maa Compagniet leita þess i tii-
ma, til Vors Rentu Camers, og vænta ser
Tilloatsemi, at þeir megi niita og brwka fra-
mandi Skip og Skip-Herra: Lyka svo, at faa
ser Vorur fraa odrum Stodum, innan- edur
utan-riikis, er þeir eigi gæti odlast med odrú
moti, sokum Striidsins.

## Þridi Postur.

Þat Pressu-Tobak og Rullu-Tobak, sem aar-
liga þarf i þessari Kaup-hondlan, til wt-rei-
dingar Landsins, skal (eptir Vorri Allra-naa-
dugustu wrlausn af 21 Januarii 1749) takast
af þeim Fabriqvum, sem þar til eru her i Stad-
A 3 num;

num; Enn eigi ma þat takast fra wtlendskum Stødum og færast þangad til Lands.

## IV. Postur.

Þegar Höndlunar Compagniet giørir þat satt fyrir Voru Rentu Cammeri, at Verdit a innlendsku Korni gengur yfir 13 Mark, hver Tunna, um Paaska leiti; og Byggit ad þvi same hoofi; þa er Compagnienu Allra-nadugast leyft at innfæra fra framandi Stødum Rwg og Bygg, til Miøls og Brauds wtreid-ningarinnar fyrir fram, til þess ars, sem þa kemur næst a eptir; Hvar um þa skal giørd verda naudsynlig Tilhlutan, fra Voru Vest-indiska og Gvineiska, samt General-Toll-Cammer Collegio.

## V. Postur.

Vier vilium Allra-nadugast tilláta, eptir Vorri Allra-nadugustu wrlausn, at innfærast megi fra framandi Stødum helmingur þess Jarns, sem Compagniet þarf arliga at inn-kaupa til wtreidningarennar. Ma Compag-niet niota Friheita Ordre til þess, fra Voru Vest-Indiska og Gvineiska Rentu- svo vel sem General-Toll-Cammer-Collegio. Sokum þess skulu Vorir Toll-Tilsioonar menn vandliga athuga og tilsia, at slikt framandi Jarn verdi skilviisliga fært hedan til Landsins; og þangad til þat skedur, se þat undir oo hulltri vard-veitslu, i Toll-bwdarinnar Geymslu hwsi: Enn

sa

soa annarr helmingur Joarnsins skal takast af inn-lendskum Til-bwningi.

### VI. Postur.

Compagnied skal, eptir Vorri Allra-noadugustu oalyktan, er giørd var þann 6 Junii oa þessu oari, fullnægia, i stadinn fyrir Consumtions Uppgiof oa þeim Korn-vorum, sem ganga til Korn-brennu-viinsins, og færdar eru þangat til Lands, Fioora Skillinga, fyrir hvern Pott af Korn-brennu-viine, sem fært er þangad til Lands, og helldur 4 Gradus; enn einum Skillingi minna fyrir hvern Gradum, sem þat stiigur minna.

Enn beri svo vid, at Compagniet loati fœra Korn-brennu-viin froa Flensborg, til sodan brwkunar; edur froa ødrum Stødum i Riikinu; þoa moa þat Brennu-viin ey stiiga meir enn 4 Gradur; svo øll prettviisi verdi i þeirri grein wti-lokud. Framm-vegis skal Compagniet vel varast, at ei se fært meira Brennu-viin oa oari hveriu til Islands, enn Naudsyn wtkrefur; svo Almwgaunum gesist ei tækesæri til Of-dryckiu og Øl-ædis, þeirra Næringu til forsoomunar; og um siidir verda sokum þess Hondlaninni til Skada og þwnga.

### VII. Postur.

Enn þad er annars vid-kemur þeim Vorum, sem oa hverri Hofn skulu til vera, og þar eiga ad seliast; þoa skal Compagnieu skylldt vera, at kaupa þær somu i Vorum Riikium og Lon-

dum, ad svo miklu leiti sem gioranligt er. Maa þvi eigi leyfast, at heimta anngr-stadar fraa, nockut þat sem her vex, edur er til-bwit. So-kum þessa skal Compagniet beidast þess, er skorta kann af þess-hattar, hiaa vid-komandi Verks-meisturum, i tiima, edur af þeirri almennu Klæda-hlodu; þvi, ef svo ber til, at þat i einn edur annann maata sann-profast, at Compagniet hondli aa mooti þessari Vorri Allra-naadugustu Til-skipan; maa þat vænta ser, at verda sak-felldt, eptir maala vextum, fyrir slika hegdan. Enn her aa moti skulu Verks-meistararnir vera for-hugsadir at laata i tie þess-hattar Vorur, þaa þeirra er oskat hiaa þeim i tækann tiima, fyrir sannsyniligt og bæriligt verd. Þær skulu og vera svo forsvaranliga du-gandi, at Compagnienu megi vel gagna; og, at Innbyggendurnir aa Islandi skuli i eingu þurfa at qvarta yfir þeim. I sama maata skal Compagnied skylldast til, at taka þat sem þarf til Kaup-hondlunar i Landinu, af þeim Klæda-vorum, sem til eru bwnar aa Islandi, og fær-dar hingat til Stadarins; þegar þær eru aa þeirri al-mennu Klæda-Hlodu aalitnar og wr-skurdadar at vera dugligar; skal at svo komnu hin sama virding aa þeim vera, er samþyckt var Anno 1757 af þeim Selskapsins Limum, er þaa voru vid nefndar Fabriqver. Enn þær Vorur, sem eigi eru her til-bwnar, leifist þeim fraa odrum Stodum at heimta og selia, aa medan einungi setur sig her i bw-stand med þess-konar idiu. Meiga þeir þaa niota fri-innfær-slu,

slu, fyrir Tolli, Consumtion, og ollum odrum aalogum. I sama maata nytur Compagniet þess Sallts, sem þarf til verkunar aa Fiski-faungum, og annarar Solltunar þar i Landi. Liika einnig fær þat Miol, Braud, Grioon, Jaarn, Viin, Brennu-viin, Tobak, Tioru, og allt þat annat, sem færist til Landsins, edur fraa þvi kemur, og til Hondlunarinnar er brwkat, hvert sem þat er at faa her i Stadnum, edur þat er hingat fært fraa odrum Stodum, eins og verit hefur, frii fyrir Tolli, Comsumtion og ollum odrum aa-logum, sem allareidu eru, edur eptir þessa Tiid uppkoma kunna; eins Accise, eptir þeirri Til-skipan, sem wt-geck um Toll-Syslanir, aarid 1762, 17 Maii, og þar getur um i þeim 26 Capitula, odrum Articula, og þridiu grein. Maa þoo eckert fals ske vid sliikann Toll, Consumtion, ne onnur Friiheit, undir eitt þusund Riikisdala sekt til Vors Konunglegs Fiscum, og fimm Hundrud Riikisdala wt-laat til Lenistur-Hwssins. Skal Compagniet svara þessu, enn sæki sinn ad-gang til Hlutaad eigenda.

## VIII. Postur.

Svo sem aadur er um getid i fyrir-farandi Fyrsta og odrum Posti, stendur þat um alla Skip-færslu aa gotzinu fraa Kaupmanna-hofn til Islands, aa medan Gud gefur Fridinn, at hun maa hvergi annar stadar fraa-koma. Enn þadan komandi Skip, mega, eptir gamalli venju, sigla þangat, er þau finna ser gagnligt.

Er þat gods allt, sem þar af inn kemur, og af-fermt er Skipunum, i Vorum Rikium og Londum, a somu leid, eins og adur hefur verit, fri-giort fyrir ollum Tolli, alogum og Consumtion, vid ferminguna. Ad sama leiti skulu Vorur þær, er fra Islandi heim koma, fara fri, eins og verit hefur adur, þegar þær ad nyiu eru a Skipum wtfærdar hedan fra Stadnum; edur og fra odrum Stodum i Vorum Riikium og Londum til framandi Stada; nema hvad gefit er i Toll, ein af Hundradi. þurfi at byggia nii hws, vid eina edur adra Hofn i Islandi; þa leyfiz at kaupa i Noregi þat Timbur, og þann Bord-vid, sem til þess þarf; og eins, at lata saman-timbra Hws. Skal slikt allt vera fri fyrir allskyns Toll-þwnga, ad Toll-tiiundinni einasta fratekinni; og maa þat alagnalaust þadan færaz til Islands.

## IX. Postur.

Þeim monnum og þioonustu Folki, sem heyra til þeirrar Islendsku Kaup-hondlunar, bædi her i Stadnum og a Islandi, veitiz vidurtaka af Compagnienu; hvar undir og skiliaz þeir tveir Factores, sem nu eru vid Hondlunina a Hamborgar Elfu, Agent Key Agerschov, og Jörgen Meyen, og eins Jon Hakon, sem a næst-lidnu ari var allra-nadugast skipadur Fiski-Tilsionar madur a Islandi. þeir somu skulu enn vera vid sinar Sysslanir, ef þeir reynaz duganlegir og þar til niitandi, og Naud-

syn

syn Kaup-hondlanarinnar þat wtkrefur. Ad sama leiti skal Compagniet fram-vegis giora good skil þeim eptir skrifudu monnum, sem verit hafa vid Hondlunina; og eins þeirra eptir laatnum Eckium; og greida hverium þeirra þad aa-nafnada aarliga upphelldis Tillag, eins og hingat til verit hefur; En þeir eru þessir:

| | | |
|---|---|---|
| Yfir-Kaupmadur Friderich Rosenmeyer | - 100 | Rdlr. |
| - - Jens Klog | - 100 | - |
| - - Thomas Bruun | - 60 | - |
| Eckia Yfir-Kaupmannsins Lohmans | 100 | - |
| Eckia Geert Michaelssonar | - 30 | - |
| Eckia Puls-mannsins Karls Jons Berrings | - 10 | - |
| Bekirinn Jens Christianson | - 20 | - |

Gylldir þetta svo lengi, sem Vid-toku-menn Til-lagsins naa ei annari betri Raadstofun ser til fram-færslu, edur Eckiurnar sitia oo-giptar. Þo skulu þessir adstodu menn i Hondlaninni, sem þar undir standa, vera sialf-skylldir, eptir sinum efnum og aasigkomulagi, at vera Compagnienu til greida i einu og odru aaliggiandi, þaa þess er leitad, og eptir þvi sem verda maa.

## X. Postur.

Compagniet skal aarliga afgreida þad Tillag af þeim Islendsku Hlunnindum, sem ser-hverium aarliga er til-einkad, af þeim Monnum, er af Oss eru Deputeradir vid Financerne, og Comitteradir i Cammer-Collegio, eptir Vorri Allra-naadugustu Resolution, þann 7 Decembris

bris 1762, nefniliga: Tvær Hálf-tunnur af smá-hoggnu Sauda-Kioti, ein Tunna af folltudum Medal-þorski, 4 Lispund af Sallt-fiski, og eins 4 Lispund af hordum Fiski. þetta skal Compagniet fram-vegis af greida þeim árliga. Somuleidis skal nefnt Compagnie betala i Peningum, á ári hveriu, Fiorutigi Riikisdali, til þess Rentu-Skrifara, som er vid þrandheims, Islands og Færeyia Districts Contoir; og þeim Fullmegtuga ved sama Contoir, Tuttugu Riikisdali. Ad auki þessa Amtmanninum á Islandi, attatigir Rixdali; og Land-Fogetanum i sama Landi Fimmtigir Rixdali, sem þeim i Vorri Allra-nádugustu Resolution af 17 Aprilis 1759, i stadinn fyrir þerra hingad edur þangad fri-færslu af Vorum, er tillagt þeim til provision.

## XI. Postur.

Compagniet færir ser til nota þær Contractir, sem ádur eru samdar af þvi hinu fyrra Compagnie: Sumt af þeim áhrærir Fiskikaupanna gagnsemi, vid vissa Fiski-Kaupmenn i Altona, og i Dantzig, um þat, at af-greida árliga vissann Forda af Fiski; Og eins þær, er sidar voru samdar vid þá til-settu Ellds- og Vatns-Commission, um vissann skamt af Liisi, sem ætlat er til lioosa-byttnanna, sem settar eru vid Stadarins gotur. Sama er at segia um þat sem til-greint er um af-greidslu á Smá-krami, So þeir nioota á sina Siidu þess ábata, sem kemur af Efningu nefndra Samninga. Fremur,

mur, og ad auki hins aadur-umgetna, er Compagnienu skylldt, aarliga, i þessari Forpagtningar Tid, at laata til Tvo edur þriw þwsund Tunnur af Kioti Islendsku, til Vors Sioo-Folks. Skal þat vera a sama haatt, sem fyrr var samit vid þat undanfarna Compagnie, fraa þeim 29 May 1752 til Jafnlengdar-dagsins 1758. Enn hver Tunna, edur 14 Lispund Kiots, skal þeim borgaz med Sex Rixdolum, og einum Slettum.

## XII. Postur.

Þat er allranaadugast skipat þann 23 Aprilis Anno 1596, at Innbyggendur Landsins skylldu allz eingann Fisk, edur adra Voru laata Kaupmonnum i tie, fyrr enn aadur væru luktar Vorar aarligu Landskylldir. Hvarvid þad og stendur i goodu aarferdi, þaa Innbyggendurnir kunna hafa Vorur til at giallda med Afgiptirnar, og kaupa þat sem þaa naudsyniar af Kaupmonnunum. Enn þegar þvert aa mooti, svo ber til, at Fiski-aflinn bregdz, edur kvik-fenadurin fellur, svo þeir þurfa naudsynliga at taka nockurt Laan til sinna naudsynia; þaa maa þat ei vera Kaup-monnum Compagniesins fyrirmunad, þaa fyrir framm er lukt sw haalfa Landskulld, at kaupa ser til hindrunarlaust, allar þær Vorur, sem þeir borga kunna, þoo at eptirstandi af Landskulldinni. þoo mega þeir Islendsku i sliku tilfelli, eigi faa adrar Vorur til kaups edur laans, enn þær, sem þeir naudsynliga med þurfa til sins upphelldis og at-vinnu

ad-

adburda. Þvi lætum Vier og annars giora þa Tilhlutan, vid Amtmann, Land-Fogeta og Syslu-menn þar a Islandi, at þeir eige einasta upphveti Al-þyduna til Fiski-aflans, þa hann gefz; helldur og hid innvirduligasta halldi Stioorn yfir, og læti almwgann vita, at svo framarliga sem hann afrækir Fiski-sok-nirnar, med oo-mensku og þverwd; þa megi þeir, sem at slikn verda sann profadir, vænta ser, at þeim verdi neitad læns a þeim hlutum, sem þeir ooska, og med svo moti, liida sialfir, sokum þeirra At-burdaleysis.

## XIII. Postur.

Compagnienu skal alleina leyst vera, at kaup-slaga, selia og kaupa, bædi a wt-hofnunum, sem Smaa-hofnum, sem og Fiordum og Eyi-um. Þa somu Houdlan mega þeir niita ser, sem þeir best vita og geta. Og skal eingum til-latit vera, hvorki Innlendskum ne Adkoman-di, at hondla, hverki a landi, ne helldur a Sioo, a fiogra Miilna fiarlægd fra Landinu. Þar a mooti skulu Kaupmenn Compagniesins vera skylldir, at veita vidtoku ollum Vorum þeim, er Lands-menn færa til þeirra, þa þær finnaz at vera goodar og forsvaranlegar Kaup-manns Vorur; Annars bæti þeim Skada sinn, og liidi Straff, eptir at-vikum.

## XIV. Póstur.

Sömu-leidis maa ei helldur nockur madur, hvert sem eru egin þegnar Vorir, edur adrir, bruka neinar Duggur fyrir Landinu, nær þvi enn 4 Vikur umhverfis Landit; vardar þat annars topun Skips og Góz, hvar sem þat hittiz. Annars, þat er aahrærir Vora egin þegna, þaa er med Vorri Allra-naaduguſtu Tillaatsemi, vilia brwka Duggur 4 Vikur fraa Landi; þaa skal Ervidis og þioonnuſtu Folk Compagniesins adstoda þaa i Naudsyn, aan Dooms wrskurdar, og med allri alvarligri stundan adstoda Sysſlanir þeirra, ſvo lengi sem þeir taka ſer eigi fyrir neina hondlan i Landinu, edur kriingum þad, ſw er i mooti ſtridi þeirra gefnum Friheitum. þoo mega nefndir Duggarar, sem fyrr segir, eigi kaupa Fiſk nockurn, ne annat af Landinu edur Fiſki-Baatunum, ſem eru aa Sioo wti ad Fiſki; þad maa vera hvad vera vill; nema þeir vili aalitaz, og liida Straff, ſem adrir Friiheita lauſir Hondlunar-menn.

## XV. Póstur.

Finniz nockurr at fremia forbodna Hondlan aa Hofnunum, edur Duggna brwkun, nær Landinu en 4 Vikur, þaa skal þeirra Vara vera upptæk, aaſamt Skipinu; og þat vera fallit til Compagniesins, eptir Forordningunni af 13 May 1682, þat er at skilia, þaa uppta-

takan, og þar um geinginn domur er af þeim Kostadur. Enn nær þat er ei giort, skulu þær Oss tilheyra og til-dæmast. Foolkid, sem a Skipunum er, straffast a Liikamanum, eptir maals vexti. Liika hefur Companied magt til, slika forbodna Handlara og Fiskara, hvadan af Landi sem þeir eru, med þeim Vorum, sem þeir hafa medferdis, at lata yfir-falla og taka, ef meguligt er, og leida fyrir Laga-Riett þar i Landi, svo þeir verdi dæmdir af Amtmanni, edur, i hans fiar-veru, af næsta Yfir-valldi, an dvalar. þeim, sem þa af Maals portunum er ei anægdur med doominn, er til-latid at innstefna honum fyrir Yfir-Admiralitetid, og færa hingat þat upptekna Godz, Skip og Skip-veria. Skal þa um þat verda dæmt af Yfir-Siavar-Rettinum, an minnsta undandrattar. Skall Valldz-madurinn i þeirri Syslu, sem sliikir for-bodnir Kauphondlarar hittaz, vera skylldur til (undir Embættis topun og annat sannsyniligt Peninga Straff, eptir maals vexti) at veita Compagnienu adstod, af ollu megni, at komaz yfir soddan menn og Skip, og dæma um þat: þoo uppa Sækiandans umkostnad.

## XVI. Postur.

Þegar svo ber vid, at nokurt Skip strandar vid Island, edur finnz Skips brot a Sioo, edur rekur til Lands; þa til þess, at vid-komandi

andi Syslu-menn og Rettarins Þenendur hafi eigi orsök at af-saka sig med van-vitsku, hverju þeim byrie at hegda ser i slikum til fellum, og hverr þess Eigandi se; þar er þat nu svo einu sinni fyrir hvert sinn tilskipat, at svo opt, sem nockut slikt fyrir-fellur, at þar skuli Hlut adeigandi Rettarar til-dæma Oss þat, enn eigi Compagnienu; eptir þvi at sa Reka Rettur yfir þat heila Land heyrir Oss einungis til, svo sem önnur Kounungs Gersemi, eptir Vorri Allra-nadugustu Resolution af 30 Januarii 1742.

## XVII. Postur.

Liika einnig skal Compagniet selia og kaupa all stadar a Landinu, eptir Taxta þeim, er Allranadugast var ut-gefinn Anno 1702, at fra-skildu Hai-kalls- og Sel-lysi; þvi um þess Borgun skal halldaz eptir sidan-komanda 29 Posti; og med rettum mæli og Vigt; Og skal Compagniet og þess þioonar hegda ser vinsamliga, med goodri um-gengni vid Jnn-byggia Landsins, bædi Andligrar og Veralldligrar Stettar; svo at eingi skuli, med rettu, hafa Orsök, at qvarta yfir þeim. Og þvi skulu þeir Handlandi, til at fyrir-byggia mis-grun og oo-einingu, lata Jnn-bua Landsins vera vidstadda, þa þær Vorur eru vegnar og stikadar, sem afhendtar eru og vid-teknar. Falli þa til nockur efi, um Rigtugleika a þeim hlutum; þa skulu Vorurnar strax a eptir vegaz og mælaz, at nær-stoddum tveimur oo-vidkomandi

Monnum. Skal Syslu-madur Districtisins skylldur til, at vera þar til stadar, þaa þorf krefur, og þvi verdur vid-komid, og af-giora Søkina þar i Stad. Enn beri svo til, at nockur raungur mælir edur Vog, finniz i Bwdinni hiaa nockurum Kaup-manna, þaa skal Compagnied vera fallid i Eitt þwsund Riikisdala Sekt; enn eigi ad-gaungu til sinna þioona og Full-mektugra. Skal Amt-madur, edur nalægt Yfir-valld, undir Embættis tøpun, ad gæta at krefia þessara Boota, og deila þeim sidan medal Faatækra Inn-byggenda, eptir skilrikum beviisingum. Enn þat er annars ser i lagi aahrærir þær Vorur, sem ei hafa ordit matnar med nockuru aa-qvednu Verdi, þaa skylldaz Compagniet i þeirri grein, at hegda ser svo vid Inn-bwendur Landsins, sem sannsyniligt er, og þeir vilia forsvara, ef nockur billeg Klogun kæmi þess vegna yfir þeim.

## XVIII. Postur.

Svo þvi betri Til-sioon verdi hofd, at eckert þat se til Landsins flutt, sem gefi Orsok og uppørvan til of-mikillar vid-hafnar, og annarrar of-neytslu, þaa er Compagnienu bannat, at flytia þangat til Lands nockra þaa Voru, sem eigi er nafn-greind i Taxtanum; svo og Franskt Brennu-Viin; skal þat at odrum kosti upptækt vera til Vorra Gialld-Sekta: Nema svo se, at Lands-menn hafi sliks fyrir fram beidst, og Vort Rentu Cammer hafi leyft, at þat megi þeim veitaz. þess vegna skal Compagniet, aa hve-

hveriu ari, at giordri grand-gæfiligri yfirleggingu vid Kaup-mennina, þa Skipin heim koma, senda inn til Vors Rentu-Cammers upp-teiknan þeirra Manna, sem a þenna hatt beidaz nockurs þess-konar, og hve mikils hverr hafi æskt, svo at þar um megi giora fremri rad-stofun. Niota þeir Handlandi fyrir þat, sem af um-bednum Vorum verdur leyft, at þangat megi flytiaz, þriggia Fiska virdis a hvern Rukisdal i Cronum, sem þeir leggia wt her i Courant, eptir Vorri Allra-nadugustu Resolution, sem wt-gefin var þann 11 Maji, Anno 1750, sem eru 48 Fiskar, edur Einn Riikisdalur Specie, til Betalings þar i Landi. þoo undan-skilst hid Franska Brennu-Viin, er borgaz skal eptir at-qvædi Taxtans.

## XIX. Postur.

Þad Miol sem til Landsins er flutt, skal vera forsvaranligt Rwg-miol. Treed skal ei meir vega a heilli Tunnu, enn eitt Liis-pund, og fiogur Pund, og mest, eitt Liis-pund og atta Pund; enn a halfri Tunnu 14 til 16 Punda; og a einu Qvarteli 7 edur 8 Pund. Reyniz Treid þiingra enn þvi samm-bydur, þa ma þoo Miolit þess vegna eigi a-skorta; þvi hvert I-laat skal taka af hreinu Mioli, sem her greinir: Ein Tunna Tiiu Liis-pund, og Tolf Skala-pund umfram; og ad minnsta kosti, Tiiu Liis-pund og atta Skala-pund. Enn Halfs-Tunnan Fimm Lis-pund, og umfram tvo Pund, hid minnsta 5 Liis-pund;

Og eitt Qværtel, 2 Liis-pund, og 9 Pund betur; eigi minna enn 2 Lis-pund og 8 Pund. Enn þat er vid-vikur Skonrogi og Skips Braudi, þaa skal ein Tunna Skonrogs taka 76 framm til 80 Punda; enn ein Tunna af Skips Braudi 80 fram til 85 Punda, fyrir utan Træ. Til þessa skal Compagnienu eptir gefaz sw veniuliga Consumtion, nefnilega: af floorum Skeppum, og tveim þridiungum Hveitis, og tveimur Skeppum, med einum þridiwngi Skeppu af Rwgi, til fullrar Tunnu Skonrwgs; og af Fimm Skeppum Rwgs, til heillrar Tunnu Skip-Brauds.

## XX. Postur.

Timbur þat, sem þangat til Lands er sendt, skal hafa þann mælir, sem nafn-greindur og til-tekinn er af nockrum Timbur-Meisturum, her i Stadnum, Anno 1734, og aa-qvardadur er i Giord þeirri, sem med-deild var, og send fraa Vorn Rentu-Cammeri, til vid-komandi Embættis-manna þar aa Landi, til Eptirrettingar Kaup-Hondluninni, þann 11 Maji, Anno 1734.

## XXI. Postur.

Donsk Courant-Mynt skal fram-vegis vera gengelig þar i Landi, eptir Vorri Allra naadugustu Wr-lausn, þann 20 Maji Anno 1733, og skal wtgefaz, og i mooti takast, svo vel af þeim Handlandi, sem ollum odrum, eptir þeirri

þeirri Reglu, sem þar er til-kynnt; nefniliga, Einn Rixdalur og 12 Skilldingar i Courant, skall gillda vid einn Specie-Rixdal; og einn Rixdalur og Sex Skillingar Courant gillda vid einn Rixdal i Cronum. þoo skal eptir þeim XXIII Posti, Borgunin til þeirra Hondlandi eigi ske i Peningum, þaa Innbyggendurnir hafa Voru at af-henda.

## XXII. Postur.

Compagniet skal sorga fyrir, at Hafnirnar faai goodar, dugligar og oo-sviknar Kaupmanns Vorur; og þat svo riikugliga, sem þorf krefur, einkum af þeim, er hliida til upphelldis, naudsynligra Bygginga i Landinu, samt Fiski-veida, og fram-bwdar Lands-vinnunni; svo einngi kunni at hafa sanna Orsok til aakæru; helldur at hver einn faai fyrir Borgun þat er hann med þarf. Enn þar vid skal, sem aadur, gaum-gæfaz sw til-skipan, at iafn vel þott gædi Vorunnar, sem til Islands er komin, verdi aalitin af hverium Syslumanni med eid-svornum monnum, sem hann tekur til þess med ser; þaa skal samt af-hendaz serdeilis Upp-teiknan yfir allar þær wtsendu Vorur, (eptir at Compagnied er bwit at semia siina Hofud-Upp-teiknan) sem i ser-hveriu Skipi eru, ad undan teknum Skips Kosti einum. Uppaa þessa framviisudu Upp-teiknan skal saa Kaupmadur, sem fer aa sama Skipi, skrifa, med Eidi sinum, at þat alltsaman, sem þar er aa nafn nefnt, se wtfært til at flytiaz

tiaz til Islands. Veri soo vid, at þat reyniz at vera minna, enn ꜳviisat er, þꜳ skulu vidkomandi, sem hafa wtgefit ꜳminst Attest, straffaz her med þrældooms Fꜳngelse, um sina Liifs Tiid.

## XXIII. Póstur.

Þegar til-falla bꜳg Fiski-ꜳar, edur Inn-byggendurnir liida tioon ꜳ Qvik-fe sinu, soo þeir hafa eigi Vorur at greida til Borgunar; þꜳ mꜳ þeim þoo med eingu mooti neitaz, at fꜳ Miol, Streingi, Skipa-Timbur, og naudsynleg Fiski-færi, til þeirra upp helldis, og at-vinnu Fram-bwdar, fyrir Reidi-Peninga, edur adra ꜳnægiliga aura. Enn fremur, ef Gud straffar Landit med Fiskileysis Árum, edur Fꜳar-dauda soo mieg, at Inn-bwarnir geta eigi keypt ser þat naudsynliga; þꜳ ber þoo Compagnienu at koma þeim til hiꜳlpar med þeirra Liifs upp helldi, þꜳngad til þeir geta borgat þat, af Blessan Guds, hit annat ꜳrit. Þoo mega Inn-bwarnir ei ꜳliita slika Biargrædis Adstod, sem Compagnienu beri skyllda til, at forsorga þꜳ, hvert sem þeir ervidudu, og leitudu at-vinnu sinnar, edur eigi: þvi þꜳ Compagniet eptir Taxtanum hiꜳlpar og lætur þeim til reidu fyrir Borgun, þat er þeir þurfa, þꜳ eiga þeir og lika at ervida, og vera idner. Ei helldur mega þeir dirfaz, at selia nockra Voru sina til Oo-frii-Hondlara, edur Skip-verianna fyrir Reidi-peninga, og til-biooda Kaupmanni þaa somu Reidi-peninga,

ga, mooti Voru: þvi eins og Compagnienu er skylldt, at kaup-slaga rettvisliga vid Jnnbyggiana; svo ber þeim og at giora þat hit sama vid Compagnied; nema þeir vili liida Straff eptir aa-liti, og topun sinna Fiaar-hluta, eptir maala vexti: þvi þeim eina aa at vera hugat um hins annars vel-liidan, til þess, at allir megi nioota Lucku og Blessunar. Enn beri svo til, at Compagnied eigi veiti forsioon, sem aadur er greint, einni og annari Hofn eptir þorfum, med svo goodum og dugandi Kaupmanns Vorum, sem Taxtinn aa-qvedur, og slikt er i nær-veru þess siglandi Kaup-manns og hanns þioona logliga ysirbevisad; þaa skal Compagnied, eptir aasigkomulagi, giallda Bætur til 4 hundrada Riikis-dala, minna edur meira, eptir maala-voxtum. Skulu þeir Peningar skiptaz milli faatækra Manna, og Bændanna i þvi Districti, svo þeir faai Skada sinn bættann. Enn hendi þat sig, at nockut af þeim þaingad fluttu Vorum, spilliz i Skipinu, aa wt-siglingunni: Eins liika, ef Vorur þær skadaz, sem liggia eptir vid Hafnirnar, svo þær kunna ei at metaz goodar Kaup-mans Vorur; þaa skal þeim Vorum eigi naudga uppaa Jnn-bwendurnar, at þeir taki þær eptir Taxtanum. Sokum þess skal saa næst-bwandi Syslu-madur vid hveria Hofn, med tveimur Monnum, sem aa þingi eru aarliga til þess nefndir, og eid-svarnir eru, strax sem Skipit verdur landfast, skoda allar Vorur, sem i þvi eru: Finniz þaa nockut af þeim skadat og oo-

forsvaranligt; þa skal setia a þa somu Voru sann-giarnligt Verd, og minna, enn sa ve-niulegi Taxti a-qvedur. þvi er þat Compag-nienu strengiliga bannat, og vid-logd eitt Hun-drad Rikis-dala wt-lat, ef þeir selia nockut af sliku, fyrr enn til-skipud rannsokun er gior; edur, ef þeir setia slikar oo-forsvaranligar Vo-rur i hærra Verd, enn þat giorda mat a-lyk-tar. Ef nockur yfir-valldsmadur vægir ein-hverium i þessu, þa skal hann hafa fyrir-giort Embætti sinu, an nockurs Mann-greinar alits.

## XXIV. Postur.

Inn-tektirnar eptir Vorri Jarda-Book og Land-skulldir, Skips aabatar, og manntals fiskar; lika Smior-leigur, med odrum rettum Skilum og Restontzum, skulu inn-leggiaz til þeirrar Hafnar, i hveriu Districti, sem Jordin liggur, og Batarnir fiska. Skal Compagnied lwka betaling fyrir þetta, a hvern 11 Dag Decembris, heri Kaupmanna-Hofn, med þvi sama Verdi, og fyrr hefur vid-gengiz: sem er, fyrir hvert Skip-pund af Fiski, skulu lwkaz Sex Rixdalir; fyrir eina Alin Vadmals, 12 Skilldingar; fyrir eina Socka, 7 Skilldingar; fyrir eina Lax-Tunnu, 6 Rixdalir, fyrir eina Smior-Tunna, 9 Rix-dalir, og eina Tunnu Liisis, 9 Rixdalir. Skal allur sa Betalingur vera i Donskum Cronum. Enn þad vid-viikur Land-skulldinni

af

af Vestmanna-Eyium; þau leyfum Ver Allranaadugast, at Compagnienu megi veitaz þær vissu og oovissu Inntektir, eptir Vorri Jarðabook; og eins Skips aabatar, og Fiski afli aa Eyiunum, með sama mooti, sem lient og veitt var þvi næst undan-gengna Is-lendska Compagnie. Skal sw veiting vara um aadur tiltekin Tuttugu Aar; enn þeir skulu aarliga þar fyrir lwka Tvo Hundrud Riikisdali i Cronum, til Vorrar Fe-hyrdslu; og hallda þeim Fioortaan Inventarii Baatum i tilbærilign og o-aatteliandi Standi, er vid Eyiarnar eiga at vera.

## XXV. Postur.

Compagnienu leyfiz at hallda Eptir-legu menn i Landinu, þar sem þeim þykir þorf til vera Hefur sliikt i vissann maata verit skipat, med Vorri Allra-naadugustu Resolution, af þeim 15 Februarii, Anno 1760, og annars verit hefur aadur leyft aa Vestmanna Eyium. Sliikum Eptir-legu Monnum maa vera tillaatid (allt eins og i veniuligri Kaup-tiid hefur brwkaz) at kaupslaga vid Is-lendinga, fyrir Compagnied; og eins, at kaupa og selia, eptir Taxtanum; ad svo miklu leiti sem Almwganum kann at bera naudsyn til, vegna sins upp-helldis og at-vinnu ad-burda; enn eigi svo sem er umgetid i þeim Siotta Posti, i Til-liti til Brennu-Viinsins, er orsaka kynni Ol-ædi og Of-dryckiu, til forsoomunar aa at-vinn Atburdum Almwgans. þoo mega sliikir Eptirlegu

 menn,

menn, edur Kaup-menn, og adrir' Compagniesins þioonar, eigi faa nockrum Is-lendingi i hendur Vorur, edur Varning, sem þeir skuli þeirra vegna wt-selia og okra. Skal sliikt hegnaz med aulita straffi, eptir at-vikum; þvii slikt aflar ei annars enn Eydileggingar Bændanna Skal þvi yfir-valldit siaa til, at fyrirfram wti-lykiz oll soddan Misbrwkan. Somuleidis mega ei Islendskir, eptir þenna Dag, þar sem slikir Eptirlegu menn eru, liwka upp þeim Hwsum, sem heyra til Compagnienu. Eins er þvi varit um Innbyggiana i Islandi, vid þær Hafnir, sem einngi slikur Eptirlegu Madur er, þaa Kaupmadurinn er aa burt sigldur, at einngi maa dirfaz, hverki geistlegt ne veraldlegt Yfirvalld, at opna, edur opna laata þau Hws, er Compagnienu til heyra, og taka wr þeim, edur taka laata Vorur, penninga, edur peninga verd, hvada Yfirvarp, sem aa þat er lagt: Nema svo beri til, at Lands-Foolkit annars lidi skort aa sinu lifs upphelldi, sokum einhverrar fullgilldrar Orsakar; edur, at Kaup-Skipit hefdi ei til þeirra komit næsta Aar, svo þat hefdi ei getad biargat ser med odru mooti. þegar slikt ber vid, þaa skulu Innbyggendurnir fyst taka logliga lagad þings vitni um þaa vidliggiandi Naudsyn; og þvi næst leita Vors Amtmanns edur Land-Fogeta. Enn sen þeir ällt-of-miog fiarlægir, þaa leiti annarra Vorra Embættismanna, til at vera vid opnan Kaupmanns Wodarinnar. þeir skulu þaa taka med ser Fioora af þeim borgnustu og

